

ARÐRÆNDIR OG KÚGAÐIR ALLRA LANDA SAMEINIST !

# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

MÁLGAGN EININGARSAMTAKA KOMMÚNISTA (MARX-LENINISTA)

2. ÁRG. 1. TBL. 1976



## Grindavík: Tilraun til fjöldabaráttu !

Pólitískir loddarar allra flokka frá Sjálfstæðisflokki til Alþýðubandalags eyða kröftum í þingsalagaspur, nefndaþras og stóryrtar kvartanir um "lélega ríkisstjórn" eða þá "óábyrgan málflutning". Baráttuafl vinnandi fólks er óvirkjað - enda vinnst ekki sigur. Leið fjöldabaráttunnar og ósveigjanleikans gegn innlendri og erlendri rányrkju - og hernaðaröflum er eina rétta stefnan. Marx-lenínistar eru þeir einu sem reka áróður fyrir þessari stefnu og EIK(m-l) hefur gert fjölmargar tilraunir til skipulagningar. Árangurinn hefur því miður verið lítill og við ramman reip að draga. Og ekki dregur tortryggni almennings á kommúnistum úr - "þökk" sé afturhaldsáróðrinum.

Alþýðufólk og smáatvinnurekendur í sjávarútvegi er orðið langþreytt á aðgerðarleysi yfirvalda og rányrkjuvernd stórútgerðað og ríkisauðvaldsins. Lengi hafa streymt kröfur og yfirlýsingar frá alls kyns hagsmunasamtökum yfir fjölmiðla.




En árangurslaust. Loks spruttu upp ýmist sjómenn eða útgerðarmenn, er eiga lífsafkomu eða gróða und undir veiðum á grunnmiðum hér og hvar á Suður- og Suðvesturlandi. Andstaðan og kröfur beindust sumpart gegn stefnu ríkisstjórnarinnar (enga samninga.), sumpart gegn Stóra-Bretlandi ( Bresku skipin úr lögsögunni.), en þó mest gegn hlutdrægni og kanónupólitík NATO. Geir & co lýstu andstöðu við aðgerðir Grindvíkinga - sem "hættulegar". KSML þagði, Fylkingin líka. En Alþýðubandalagið reyndi að beina aðgerðunum í þágu atkvæðasmölunar - "Kjósið Alþýðubandalagið, þá er landhelgismálið í höfn". Stuðningsyfirlýsingar hvaðanæva við aðgerðir Grindvíkinga, aðrar svipaðar aðgerðir Sandgerðinga, Hafnabúa, Þorlákshafnabúa og flugumferðastjóra sýna hug verkalýðs, vinnandi alþýðu og einstakra bandamanna hennar í þessu máli. Gegn þessum jákvæðu baráttutilraunum duga hvorki hótanir fulltrúa aðalandstæðings alþýðu þ.e. einokunarhringanna og ríkisvaldsins né þögn vinstri róttæklinga. Þeim finnst nefnilega voðalegt

frh. bls. 5.

## Hvað er á seyði í samningamálunum?

Nú eru 3 vikur frá því samningar voru lausir, og enn hefur ekkert gerst þrátt fyrir að samningafundir hafi staðið síðan í desember.

Frá ASÍ-forystunni hefur ekki komið annað en niðurstöður kjaramálaráðstefnunnar, sem haldin var um mánaðarmórin nóv/des. Á ráðstefnunni voru ekki settar fram neinar beinar kaupkröfur heldur lögð áhersla á sameiginlegar "aðgerðir" með ríkisvaldi og atvinnurekendum. Þá er um að ræða svokallaðar aðgerðir gegn verðbólgu, breytingar á skattalögum og aðrar "hliðarráðstafanir" sem hafa oftlega sýnt sig að vera til hins verra í raun og veru eins og til að mynda breytingar á skattalögum sl. árs.

Atvinnurekendur hafa í engu svarað þessum tillögum "forystunnar" og hún lætur sér það vel líka eins og áður.

### LODDARASKAPUR

Mestar líkur eru á að sett verði á svið svipað sjónarspil í tilvonandi samningum og gert hefur verið nú síðustu ár við samningagerð þ.e.a.s. samið upp á örfá þúsund en hliðarráðstafanirnar látnar gilda sem svo og svo mörg % kauphækkun, en vísitölubinding launa (sem "vinstri"stjórnin sáluga átti upphaflega heiðurinn af að [illegible] nema) látinn sigla sinn sjó. Þar með er opin leið að hirða þær fáu krónur sem nást á stuttum tíma.

Hver eru meinin? EItt er hin mikla miðstýring í verkalýðshreyfingunni, þ.e.a.s. þeir sem eru háembættismenn í verkalýðshreyfingunni og þar að auki flestir með eitt eða fleir embætti og bitlinga hjá ríkinu og/eða stjórnmálaflokkunum, menn sem hafa aðra stöðu heldur en vinnandi fólk. Frá þessum mönnum verður að taka samningsumboðið og setja það í hendur hinna einstöku stéttarfélaga,

frh. bls. 5.

INNI Í BLAÐINU:

VERKALÝÐSBLAÐIÐ
málgagn EIK(m-l)
RITSTJ. OG ÁB.M.:ALBERT EINARSSON






**LEIÐARI**

# Landhelgismálið og baráttan gegn risaveldunum

Afstaða risaveldanna, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna,til útfærslu fiskveiðilögsögunnar í 200 mílur,er dæmigerð fyrir afstöðu þeirra til baráttu smáþjóða fyrir sjálfstæðri tilveru og yfirráðum yfir eigin auðlindum.

## Hverjir eru hagsmunir risaveldanna?

Þeir eru fyrst og fremst hernaðarlegs eðlis.Heimsvaldasinnar bera ekki hag smáþjóðanna fyrir brjósti og fyrir þeim eru náttúruauðæfin í Norður-Atlandshafi algert aukaatriði í samanburði við mikilvægi þess að halda hernaðarlegri stöðu sinni á þessu hafsvæði.

Hvers vegna eru risaveldin andvíg útfærslu fiskveiðilögsögu?

Bæði risaveldin berjast hatrammlega gegn kröfu strandríkja um yfirráð yfir eigin landgrunni.Heimsvaldasinnar vita mætavel að útfærsla fiskveiðilögsögunnar við Ísland er aðeins einn liður í umfangsmikilli baráttu smáþjóða og strandríkja um allan heim fyrir yfirráðum yfir eigin auðlindum og landgrunni.Þetta kom m.a. fram á hafréttarráðstefnunni,þar sem risaveldin neyddust til að fallast á stefnuna um 200 mílur,en þó með allt öðru innihaldi en mörg lönd þriðja heimsins höfðu markað.Risaveldin lögðu til að strandríkin fengju forgangsrétt til að nýta það sem þau gætu af auðæfunum,afganginum skyldi deilt niður á aðrar þjóðir af alþjóðlegri nefnd.Í krafti heimsyfirráða sinna ætluðu síðan risaveldin að tryggja sér bæði fyrsta og síðasta orðið í slíkri alþjóðlegri nefnd.

Í tillögu þriðja heimslandanna var kveðið á um að strandríkið skuli eitt ráða öllum siglingum um lögsöguna.Gegn þessu börðust risaveldin hatrammlega,þar sem þetta myndi hindra þau í að sigla með stríðsflota sín um heimshöfin.

Stefna hinna mörgu landa þriðja heimsins um fulla og óskoraða 200 mílna efnahagslögsögu,sem einnig nær til siglinga hefur hlotið vaxandi stuðning um allan heim.Sérhver útfærsla lögsögu,fiskveiðilögsögu,auðæfalögsögu o.s.frv. er liður í þeirri baráttu,sem háð er um allan heim,að tryggja strandríkjunum óskoraðan rétt til að ráða sínum málum innan 200 mílna markanna.Þessi barátta er andstæð hagsmunum risaveldanna í hvaða mynd sem hún tekur á sig.

Þegar fiskveiðilögsagan við Ísland var færð út mótmæltu Sovétr.því strax. Sovétr.hafa stundað fiskveiðar á hafinu norðan við landið á undanförnum árum með sívaxandi flota.Hluti flotans er jafnframt eða eingöngu í hernaðarlegri þjónustu.Útfærsla fiskveiðilögsögunnar hindrar Sovétr.í að staðsetja flota sinn nálægt Íslandi.

Á undanförnum árum hafa sovéskir flotar gert risastórar heræfingar á N-Atlandshafi.Útfærsla fiskveiðilögsögunnar þrengir athafnarými æfinganna og veikir möguleika Sovétr.á því að geta t.d. æft innrás í Ísland eða gert beina innrás með aðstoð landgönguliða um borð í fiskiskipum.

Bandaríkin óttast afleiðingar útfærslunnar.Þegar hefur sést að staða NATO er orðin veik á Íslandi. Íslensk alþýða sér að hernaðarbandalag bandarísku heimsvaldasinnanna,NATO,er til einskis nýtt þegar til kastanna kemur,annars en að standa sem varðhundur fyrir hagsmuni bandarísku heimsvaldastefnunnar. Ennfremur óttast Bandaríkin að stríðið milli Íslands og Bretlands opni augu alþýðunnar í hinum aðildarlöndunum og afhjúpi NATO.Bretar fá því gott svigrúm til þess að reyna að koma í veg fyrir útfærslu og NATO er beitt til þess að koma á "vopnahléi" með samningi sem skaðar ekki NATO né Bandaríkin.Íslenska ríkisstjórnin hefur ekki sömu hagsmuni og íslensk alþýða og selur því sjálfsákvörðunarrétt þjóðarinnar fyrir eigin heimsvaldasinnuðu hagsmuni.




## Hættan á heimsstríði er yfirvofandi

Öll teikn benda á að við lifum ekki lengur á eftirstríðsárum heldur fyrirstríðsárum.Risaveldin vígbúast hvert sem betur getur til stríðs.

Á undan stríðsstorminum kemur logn.Allar væringar sem veikja stríðsundirbúninginn er bældar og þeim eytt.Fiskveiðideila Íslendinga og breta veikir stríðsbandalag bandarísku heimsvaldasinnanna,NATO. Þess vegna er reynt að útkljá þá deilu á mettíma, miðað við langlundina í fyrri deilum,einkum þó 1958-61.

Fregnir frá Sovétríkjunum segja að þar ríki nú hungur og eymd á stórum landsvæðum vegna"uppskerubrests"og alls konar spillingar í valdakerfinu.Þá segir frá því að kremlherrarnir hafi hafið mikla herferð til að koma fyrir kattarnef óhlýðnum mönnum í valdakerfinu. Þetta bendir til þess að kreppan sé vaxandi í Sovétríkjunum

Allt þetta eru krepputeikn. Kreppunni er velt yfir á herðar sovésku alþýðunni. Hergagnaframleiðslan er er aukin stórlega á kostnað lífsnauðsynja alþýðunnar.Í kreppu er vígbúnaður og hervæðing fjöregg auðherranna.

Hver heræfingin annarri stærri er gerð,nú síðast sú stærsta sinnar tegundar í heiminum, þar sem rússneskir flotar æfðu á öllum heimshöfum samtímis.Nýlega var opnaður skipaskurður á milli Murmansk í norðri til Lenín-grad við Eystrasalt.Skipaskurður þessi tekur allt að 2500 tonna skip,eða öll venjuleg herskip.Frá flotastöðinni á Kolaskaga við Barentshaf sigla risastórir flotar og þar er staðsettur mikill fjöldi landgönguliða útbúinn til landgöngu við erfiðar aðstæður svo sem í Norður-Noregi og á Íslandi.

Ford Bandaríkjaforseti tilkynnti nýlega um stóraukin fjárútgjöld til hermála á þessu ári.Vígbúnaður þessi á að tryggja hina svokölluðu "detente" stefnu,segja bandarísku heimsvaldasinnarnir."Detente" eða slökunarstefnan, er stefna sú sem skjalfest var á Helsinki-ráðstefnunni um "frið og afvopnun".

## „Friður" og vígbúnaður

Risaveldin bæði hyggjast tryggja friðinn með síaukinni vopnvæðingu og vígbúnaði.Þetta bragð hefur áður verið leikið og varð þó úr heimsstyrjöld,enda aðeins undirbúningur fyrir hana.

Barátta fyrir friði verður ekki háð með auknum vígbúnaði risaveldanna,heldur með aukinni þjóðfrelsisbaráttu alþýðunnar.

Barátta Íslendinga fyrir óskoruðum yfirráðum yfir fiskveiðilögsögunni og yfirráðum yfir öllu landgrunninu,er barátta gegn risaveldunum og stríðsundirbúningi þeirra. Íslendingar standa ekki einir í þeirri baráttu.

Við eigum stuðning um allan heim og barátta okkar styður baráttu annarra gegn drottnun og yfirgangi risaveldanna og fyrir sjálfstæði,þjóðfrelsi og byltingu.

EFLUM BARÁTTUNA FYRIR SJÁLFSÁKVÖRÐUNARRÉTTINUM.
EFLUM BARÁTTUNA GEGN RISAVELDUNUM OG STRÍÐSUNDIRBÚNINGI ÞEIRRA.


Arðrændir og kúgaðir allra landa sameinist!
VERKALÝÐSBLAÐIÐ
Útgefandi:
EININGARSAMTÖK KOMMÚNISTA
(Marx-Lenínistar)
póstfang: Skólastræti 3b
verð: áskrift 1975 250 kr.
1976 600 kr.
í lausasölu 50 kr.
póstgíró nr. 12200


## Frá ritstjórn

Enn eru margir sem ekki hafa greitt áskriftargjöld sín.VERKALÝÐSBLAÐIÐ þarf á áskriftargjöldunum að halda til þess að hægt sé að halda þeirri áætlun,sem gerð hefur verið um uppbyggingu blaðsins. Við skorum því á alla,sem ekki hafa gert upp að gera það hið fyrsta.Auðveldast er að senda greiðsluna á PÓSTGÍRÓ Nr.12200

Þeir sem vilja gerast áskrifendur hringi í síma 35904 Reykjavík eða skrifi til:
VERKALÝÐSBLAÐIÐ
c/o Albert Einarsson
Sléttuvegur 45
Reykjavík.




## Bréf frá
# Kommúnistaflokki Þýskalands/ML
## til EIK(m-l)

Kommúnistaflokkur Þýskalands/ML hefur sent EIK(m-l) baráttukveðjur sínar. Í bréfi KPD/ML biður KPD/ML EIK(m-l) fyrir baráttukveðjur til baráttufólks á Íslandi.
VERKALÝÐSBLAÐIÐ birtir hér hluta bréfs KPD/ML til EIK(m-l).

"Íslenska alþýðan háir nú harða baráttu fyrir útfærslu fiskveiðilögsögunnar í 200 mílur. Baráttan er háð upp á líf og dauða gegn nokkrum heimsvaldaríkjum (Stórabretlandi, V-Þýskalandi og Sovétríkjunum), sem stunda rányrkju á íslenskum fiskimiðum, án tillits til tilveru og lífsgrundvallar íslenskra sjómanna og alþýðu....
Barátta íslensku alþýðunnar gegn rányrkjunni og árásum bresku heimsvaldasinnanna, gegn bandarísku heimsvaldasinnunum og sovésku sósíalheimsvaldasinnunum til verndar þjóðlegum rétti er réttlát barátta, sem á sér stuðning um allan heim.
Við gleðjumst því yfir tækifærinu að geta fullvissað ykkur um að flokkur okkar mun, eins og hingað til, berjast gegn sérhverri árás, sérhverri fjandsamlegri aðgerð vestur-þýsku heimsvaldasinnanna gegn íslensku alþýðunni.
Við erum þess fullvissir að íslenska alþýðan mun vinna bug á öllum erfiðleikum í baráttu sinni. Að lokum mun hún vinna sigur á öllum óvinum og brjóta í rúst drottnunarveldi arðræningjastéttarinnar, sem nú arðrænir og kúgar íslensku alþýðuna, með sósíalískri byltingu.
Bresku sjóræningjana burt af Íslandsmiðum!
Niður með árás bresku heimsvaldasinnanna á íslensku alþýðuna!
Niður með bæði risaveldin, aðalstríðsrekendurna og verstu arðræningja og kúgara alþýðunnar!
Niður með vesturþýsku heimsvaldastefnuna!
Lifi vináttan á milli þýsku og íslensku alþýðunnar!

## Úr Klassekampen Noregi
# „Barátta Íslands er fordæmi ..."

Í síðasta tbl. 1975 af KLASSEKAMPEN, málgagni Kommúnistaflokks Verkamanna(m-l) í Noregi, birtist löng og ítarleg rein um landhelgismálið.
VERKALÝÐSBLAÐIÐ birtir hér úrdrátt úr greininni.

"Barátta Íslands er fordæmi fyrir alþýðuna um allan heim"

"Fyrir Ísland er "þorskastríðið" við berta barátta upp á líf og dauða. Aðalandstæðingur Íslendinga nú er Bretland, heimheimsveldi sem séð hefur betri daga, og reynir með grófri valdbeitingu og byssubáta-stjórnkænsku að knébeygja Íslendinga og í samræmi við svörtustu venjur sínar, miða að því að vinna stríðið með því að halda fram "rétti hins sterkasta". Risaveldin tvö Bandaríkin og Sovét eru einnig meðal verstu óvina Íslands vegna þess að þau taka afstöðu gegn útfærslunni og þau nota Ísland í þágu eigin "öryggishagsmuna". Íslensk alþýða háir hetjulega baráttu gegn ræningjavaldi. Baráttan hefur mikla þýðingu fyrir smáþjóðir og kúgaða alþýðu um allan heim og henni ættu allir andheimsvaldasinnar að veita athygli á komandi tímum.
Ísland er fyrsta landið við N-Atlandshaf sem hefur fært fiskveiðilögsögu sína út í 200 mílur. Síðan hafa mörg lönd í Latnesku-Ameríku og Afríku gert það sama. Peru færði úr fiskveiðilögsögu sína þegar 1948. Síðan þá hefur margt gerst í sambandi við alþjóða hafréttarmál, en það er afleiðing af því að strandríki og lönd 3. heimsins hafa myndað með sér samfylkingu gegn heimsveldalöndunum og hinum gömlum sérréttindum þeirra.
Áður var það þannig að strandríki höfðu aðeins yfirráð yfir mjög mjórri hafræmu með fram ströndunum. Þetta var mjög slæmt fyrir ríki ei eins og Ísland, en þau ríki sem byggja fiskveiðar sínar á verslun á fjarlægum miðum græddu mikið á þessu.
Þegar Ísland nú hefur fengið 200 mílna lögsögu er það í fullu samræmi við þær grundvallareglur sem yfirgnæfandi meirihluti hefur stutt á hafréttarráðstefnu S.Þ. Formlegri afgreiðslu á vettvangi S.Þ. er enn

frh. bls. 5.

## Úr THE WORKER
# Kommúnistaflokkur - Bretlands (m-l)
## The Communist Party of Britain (marxist-leninist)

Í breska blaðinu The Worker, sem er blað Kommúnistaflokks Stórabretlands(m-l), birtist eftirfarandi grein um landhelgismálið. VERKALÝÐSBLAÐIÐ birtir greinina í heild sinni.

"Sendingu bresku herskipanna á Íslandsmið verður að fordæma, sem árásaraðgerð gegn íslenskri alþýðu. Stjórn Verkamannaflokksins, sem lætur sér ekki nægja að stjórna yfir niðurníddum náttúruauðæfum Bretlands, er svo til tilbúin til að heyja stríð til þess að vernda þá reglu að öll heimsins náttúruauðæfi séu undir yfirráðum auðvaldsins sem eigi að ráða yfir þeim og eyðileggja að eigin vild.
Með þessari aðgerð skaðar aðeins stjórnin hagsmuni bresks verkalýðs. Herskipin voru ekki send á vettvang til þess að vernda matvælaöflun Bretlands eða til þess að viðhalda vinnustöðum togarasjómannanna, vegna þess að samtímis því að flotinn er sendur á vettvang við Ísland, hreinsa risatogarar, sem sópa upp fiski til áburðarframleiðslu, okkar eigin mið. Rússneski flotinn einn sér gleypir 15 þúsund tonn af fiski á degi hverjum, bæði stórfisk og smáfisk. Önnur lönd og aðrir kapítalistar hafa með aðstoð verksmiðjuskipa eyðilagt okkar eigin fiskistofna, þannig að þúsundir makrílsjómanna standa frammi fyrir atvinnuleysi, meðan góður matfiskur er malaður í áburðar og fóðurmél í auðvaldskvörnunum. Það sem er að gerast með makrílinn mun einnig gerast með síldina og þorskinn, ef ekki verður tekin önnur afstaða með kynslóðir framtíðarinnar í huga.
Íslenska alþýðan hefur tekið rétta afstöðu varðandi varðveislu fiskistofnanna á eigin miðum. Með gerðum sínum varðveita íslendingarnir mikilvæga eggjahvítuefnis-auðlind fyrir allan heiminn.
Í sókn sinni eftir fljótteknum og auðfengnum gróða munu hýenurnar í breska togaraeigendasambandinu drepa gæsina sem verpir gulleggjunum, ef ekki verður að gætt.
Ekkert er auðvelt eða fljóttekið í lífi sjómannanna, jafnvel ekki á bestu tímum. Núna um miðjan vetur er þeim att fram í fremstu víglínu, sem skiptimynt í sókninni eftir auðfengnum gróða. En þegar fram í sækir verður enga vinnu að fá fyrir togarasjómenn á fisklausu hafinu.
Í stað þess að berjast gegn íslendingunum ættum við að færa út okkar eigin fiskveiðilögsögu í 200 mílur og tryggja okkar eigin fiskistofna fyrir ágangi og rányrkju borgaranna, bæði okkar lands og annarra landa."

## AÐ BYGGJA RAUÐA ÆSKU

Í haust voru stofnuð undirbúningssamtök róttæks ungs fólks "Rauð æska". Frumkvæðið átti KSML.

EIK(m-l) átti engan þátt í stofnuninni, enda óspurð. Samþykkt var stutt málefnaskrá og skipuð stjórn. Samtímis beittu félagar KSML sér fyrir því að samtökin "stæðu óháð"(?) öllum samtökum og þar með pólitískum deilum KSML og EIK(m-l) með því að skipuleggja engar umræður. Í málefnaskránni er óljóst kveðið á um öll atriði nema stuðning við sósíalísku ríkin og hagsmunamál ungs fólks. T.d. áttu félagar að "styðja kommúnismann" - og það þótt ust trotskistar Fylkingarinnar geta gert.

**Starfið.**

Starf meðal almennra félaga RÆ hefur nær ekkert verið, enda oftast hringt í róttæka menn og þeir beðnir um að beita sér fyrir stofnun deildar RÆ (sbr. Menntaskólann við Tjörnina og á Laugarvatni) - deildirnar standa svo ráðþrota.

Nú ber svo við að stofna á RÆ sem samtök í lok jan. Þá fá deildirnar allt í einu verkefni við smíði stofnskrár - án nokkurrar undangenginnar umræðu, og það sem meira er, þetta á ekki að vera fulltrúaþing að ákvörðun KSML. Allir mega mæta á þingið í Rvk og hafa sjálfkrafa atkvæðarétt. Þetta þýðir t.d. að 15-20 manna lið í MH (sumpart fólk úr KSML) mætir með jafnmörg atkvæði, en aðeins 2-3 fulltrúar frá MA og Laugavatni. Skyldi þetta vera tilviljun?

Í miðstjórninni geisa umræður um hvort RÆ eigi að vera "æskulýðssamtök kommúnistaflokksins" - en félagar taka ekki þátt í þeim.

Og flokkurinn er ekki til né heldur stefna hans. Um er að ræða fyrirhugaðan "flokk" KSML, sem smíða á á páskum n.k.

### MAT

EIK(m-l) hefur ekki stutt þennan loddaraskap KSML - einn félagi EIK(m-l) hefur reynt að hamla gegn starfsaðferðum KSML innan RÆ í einu virku einingunni: Miðstjórn/ritnefnd.

Sé tilgangur KSML að gagnast hagsmunum ungs alþýðufólks er rangt að öllu staðið. RÆ áttu að vera æskulýðssamtök KSML og ekkert annað eða þá marx-lenínísk æskulýðssamtök. Það er ekki til millivegur í kommúnískri hreyfingu á Íslandi milli KSML og EIK(m-l), þar skerst á milli marx-lenínisma og hentistefnu þegar heildin er skoðuð.

"Sjálfstæð" stefnumótun RÆ er ómöguleg - samtökin munu styðja EIK(m-l) eða KSML þegar til kastanna kemur. Rétt er að taka fram að RÆ er nú sem stendur óljós samfylking - þar er margt manna sem standa á engan hátt fyrir ruglanda RÆ. Allt framsækið fólk í RÆ verður að berjast pólitískri baráttu fyrir marx-lenínískum grundvelli samtakanna.

## MISTÖK MIÐNEFNDAR HERSTÖÐVAANDSTÆÐINGA

EIK(m-l) þykir rétt að gagnrýna miðnefnd herstöðvaandstæðinga. Um leið er tekið undir gagnrýni fjölmargra einstaklinga. Málavextir eru þessir:

Um svipað leyti og Grindvíkingar lokuðu veginum að NATO-stöðinni við Grindavík var orðið ljóst að Luns framkvæmdastjóri NATO kæmi til Íslands til að "miðla málum".

Einsýnt er að koma Luns var eðlilegt tilefni til aðgerða og fjöldabaráttu gegn fjandsamlegri stefnu og afstöðu NATO. Þarna var því kjörið tækifæri fyrir herstöðvaandstæðinga - þeir hafa jú nýverið kosið sér miðnefnd.

En miðnefndin lét sér ekki segjast. Hún ákvað að efna ekki til aðgerða þar sem hún hefði ekki vald til þess og tími væri of naumur. Í stað skipulagningar baráttu færði nefnd in Luns og ríkisstjórnini mótmælabréf.

Þessi mistök miðnefndar eru alvarleg. Allir vita að tímaskort er unnt að yfirvinna og nefndin hefur víst möguleika til skipulagningar aðgerða. Nefndin þurfti aðeins að hvetja til aðgerða og ná sambandi við ýmis samtök til stuðnings og þátttöku.

Afleiðing pólitískra mistaka miðnefndarinnar varð svo sú að andstaða fjöldans gegn NATO og hernum kom vart í ljós - afturhaldinu til framdráttar.

EIK(m-l) skorar á miðnefnd að endurskoða sinn gang og alla herstöðvaandstæðinga að efla baráttuna.



## SJÚ EN-LAI ER LÁTINN

Félagi Sjú En-lai er látinn. Hann lést 8. janúar. Marx-lenínistar og byltingarsinnar um allan heim syrgja mikilhæfan leiðtoga og byltingarmann.

Kommúnistaflokkur Kína og kínverska alþýðan hefur misst mikinn foringja og alþjóðleg hreyfing kommúnista hefur misst mikinn baráttumann. Sjú En-lai helgaði allt sitt líf baráttunni fyrir sósíalismanum. Hann barðist hetjulegri baráttu í andspyrnustríðinu gegn japönsku innrásaröflunum og frelsisstríði kínversku alþýðunnar. Allstaðar skipaði hann forystusess í baráttunni.

Sjú En-lai fæddist í Huai An í Kiangsu-héraði árið 1898. Hann var 78 ára þegar hann lést.

Miðstjórn EIK(m-l) afhenti sendiherra Kínverska Alþýðulýðveldisins á Íslandi samúðarkveðjur Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista) og miðstjórn og félagar EIK(m-l) rituðu nöfn sín í minningarbók um Sjú En-lai í sendiráði Kínverska Alþýðulýðveldisins í Reykjavík.

Sjú En-lai verður minnst frekar í næsta blaði.

## ÚR ZERIIPOPULLIT

ORGAN I KOMITETIT QENDROR TE PPSH

Í blaðinu ZERILPOPULLIT, málgagni Flokks vinnunnar í Albaníu er fjallað um þær afleiðingar, sem kreppan hefur haft í för með sér á vesturlöndum fyrir þarlend bandalög.

Bent er á að upplausn SEATO (hernaðarbandalags bandarísku heimsvaldasinnanna í SA-Asíu), sem afleiðing ósigursins í Indókína, hafi verið mikið áfall fyrir Bandaríkin. Deilur og misklíð er einnig í öðrum bandalögum heimsvaldasinna, t.d. væru löndin í NATO farin að framkvæma ýmsa hluti án þess að spyrja Bandaríkin að því áður. Blaðið segir: "Augljós merki um að deilur eru innan NATO eru auk tilhneygingar landanna til að fjarlægjast hvert annað, viðleitni einstakra landa til þess að taka upp til endurskoðunar tengslin við NATO".

Um toppfundinn í Brussel, þar sem Ford aðvaraði vesturlönd við því að endurskoða aðild sína að NATO, segir Zerlipopullit: "Aðvörunun var bein ógnun við þau aðildarlönd, sem krafist höfðu endurskoðunar á staðsetningu bandarískra herstöðva og hermanna í löndum sínum og einnig endurskoðunar á skuldbindingum þeim sem aðildin að NATO setur þeim. Það er staðreynd að drottnunarstefna sú sem bandaríska heimsvaldastefnan fylgir gagnvart bandamönnum sínum, vígbúnaðarógnun og samvinnan við sovésku sósíalheimsvaldastefnuna um heimsyfirráðin, verður sífellt meira afhjúpuð fyrir alþýðuna í löndum Evrópu og annarsstaðar í heiminum."

## NATO gliònar

Blaðið lýkur greininni á því að segja að þrátt fyrir að bandarísku heimsvaldasinnarnir reyni í örvæntingu að gera við sprungurnar í samstarfi vestrænna, þá mætir þeim aðeins stærri andstaða vesturlanda.

[redacted]

## EIK(m-l): YFIRLÝSING

EIK(m-l) sendi frá sér til fjölmiðla eftirfarandi stuðningsyfirlýsingu.:

Einingarsamtök kommúnista (marx-lenínistar) EIK(m-l) - lýsa fullum stuðningi við aðgerðir sjómanna og annars baráttufólks fyrir 200 mílna fiskveiðilögsögu við Ísland.

Innlend og erlend rányrkja ógnar mjög fiskimiðum íslendinga. Stórveldin og risaveldin, Sovétríkin og Bandaríkin, eru harðir andstæðingar og ásælni þeirra

frh. bls. 5.

## SAMNORRÆNAR AÐGERÐIR

# SAMSTAÐA MEÐ ÍSLANDI

Þann 23 janúar s.l.var baráttu og samstöðudagur fyrir baráttu þjóðanna við N-Atlandshaf fyrir útfærslu fiskveiðilögsagna sinna. Aðgerðir dagsins einkenndust af samstöðu með baráttu íslendinga gegn árásum og ofbeldi bresku heimsvaldasinnanna.

Haldnar voru baráttugöngur og baráttufundir víðsvegar um landið,svo sem í Osló,Bergen,Þrándheimi, Svolvær,Tromsö,Hammerfest, Bodö og Vadsö.

Aðgerðirnar voru gerðar undir vígorðunum:
Samstaða með Íslandi!Öll lönd verða að viðurkenna 200 mílna fiskveiðilögsöguna! Burt með bresku herskipin! Styðjum baráttu Grænlendinga og Færeyinga fyrir fiskveiðilögsögu! 50 mílur fyrir Noreg nú - 200 mílur fyrir árslok 1976! Vísum á bug þrýstingi Sovétríkjanna í hafréttarsamningunum! Samstaða sjómenn og verkalýður!

Fjöldi þáttakenda í aðgerðunum var mikill þrátt fyrir leiðindaveður. Í Osló gengu á þriðja þúsund manns í göngu um miðborgina. Í Tromsö tóku um 350 manns þátt í aðgerðunum.Annarsstaðar var þáttakan um 100 manns. Baráttuhreyfingin Aksjon Kyst-Norge átti frumkvæðið að aðgerðunum og stóð fyrir þeim,en sú hreyfing hefur baráttuna fyrir útfærslu landhelginnar við Noreg og verndun fiskistofna að aðalverkefni.

Á útifundi sem haldinn var eftir gönguna í Osló ávarpaði íslenskur sjómaður fundinn.



## „BARÁTTA ÍSLANDS.." frh.af bls.3

ekki lokið, en það er en enginn vafi á því að útfærsla Íslands fær stuðning mikils meirihluta þátttöku lan þátttökulandanna á ráðstefnunni."

Klassekampen rekur í greininni gang mála og greinir frá viðtali við Sigurð Hafstað sendiráðsritara í Oslo.

Í lok greinarinnar segir:

"Hin einbeitta barátta íslensku alþýðunnar gegn sjóráni breta á skilið umfangsmikinn stuðning frá verkalýð, sjómönnum og and-heimsvaldasinnum í Noregi og öðrum löndum þar til Ísland hefur unnuð fullan óskoraðan yfirráðarétt yfir öllu 200 mílna svæðinu. Vörn Íslendinga fyrir rétti sínum er fordæmi fyrir alþýðuna um allan heim.

# SOVÉTR. Í KREPPU

Efnahagslífið í Sovétríkjunum einkennist af kreppuástandi og stöðnun. Í ræðu áætlanaráðherra Sovétríkjanna,Baibakow, sem hann hélt í Æðstaráðinu 2.desember s.l.kemur þetta skýrt fram. Á töflunni hér að neðan sést að um stöðnun og afturför er að ræða.

Tölurnar fyrir þungaiðnaðinn eru skástar, en sýna að aukningin er að verða minni og minni og þó er þungaiðnaðurinn settur í hásætið þar sem hann er forsenda allrar hergagnaframleiðslu. Fjármögnun í neysluiðnaðinum er einnig langt á eftir. Í blaðinu "Sovetskaja Rossija" kvartar ráðherra undan því að þeir hefðu aðeins fengið 700 af þeim 1300 vélum sem þeir pöntuðu og helmingur þeirra véla sem þeir fengu var illnothæfur vegna lélegra gæða. VERKALÝÐSBLAÐIÐ mun fljótlega birta ítarlegri grein um efnahagslegt og pólitískt ástand í Sovétríkjunum og drottnunarstefnu sovésku sósíalheimsvaldasinnanna.

ÞRÓUN IÐNAÐAR,ÁÆTLANIR OG RAUNVERULEIKI Í SOVÉTR.

| | Áætluð árleg aukning 1971-75(1) | 1971 | 1972 | 1973(2) | Áætluð aukning 1976(3) |
|---|---|---|---|---|---|
| Neysluvöruiðnaður | 9,6 | 7,7 | 5,7 | 5,9 | 2,7 |
| Þungaiðnaður | 8,1 | 7,7 | 6,8 | 8,2 | 4,9 |
| Neysluvöruiðnaður í % af þungaiðnaði. | 120 | 100 | 84 | 72 | 55 |

(1) Úr ræðu Kosygin á 24 flokksþinginu 1971.
(2) Skýrsla um áætlunina fyrir 1973.
(3) Úr ræðu áætlanaráðherrans Baibakow 2.des.1975.

# Tilraun til fjölda baráttu!

frh af bls 1.

að sjálfstæðismenn og stakir atvinnurekendur neyðist til að taka upp eða styðja framsæknar kröfur. Í raun styðja þeir einmitt afturhaldið með þessu og tvístra eindregnum og mögulegum samherjum í ýmsum málum stéttabaráttunnar.

Tvær setningar,sem tíðindamaður VERKALÝÐSBLAÐSINS heyrði í viðtölum við verði í Grindavík,segja allt,sem þarf að segja:
"þegar fólk vant lífsbaráttunni tekur sig til hefur öll barátta einhverja þýðingu" - "það skiptir minna máli hver heldur á hamrinum, mestu varðar hvert höggið lendir".

EIK(m-l) fordæmir alla andstöðu við fjöldaaðgerðir í fiskveiðideilunni og sendir enn á ný stuðningskveðjur til baráttufólksins í Grindavík,Höfn,Sandgerði, Þorlákshöfn og víðar. -

BYGGJUM BARÁTTUNEFNDIR - SKIPULEGGJUM FJÖLDABARÁTTU - GEGN NATO,GEGN SAMNINGUM, GEGN ALLRI RÁNYRKJU,GEGN AÐSTÖÐU SOVÉTRÍKJANNA Á ÍSLANDI!

## GANGUR SAMNINGA frh af bls 1.

jafnframt því sem berjast verður fyrir auknu lýðræði í stéttarfélögunum. EIK(m-l) leggur áherslu á eftirfarandi kröfur í komandi samningum:

1. Gegn miðstýringunni - samningana í hendur félaganna.
2. 85000 kr. lágmarkslaun sem þýðir að sami kaupmáttur náist og út úr samningunum í mars ´74 jafnframt því sem 3. og 4. taxti Dagsbrúnar og sambærilegir taxtar falli niður.
3. Vísitölubinding launa,samkvæmt óskertum grundvelli vísitölu framfærslukostnaðar.

## EIK(m-l): Stuðningsyfirlýsing

frh.af bls.4.

hættuleg sjálfsákvörðunarrétti Íslands.Yfirgangur stórabretlands og hernaðarofbeldi þeirra á miðunum á sér stað í skjóli NATO og með þöglu samþykki allra stórveldanna í bandalaginu.

Aðgerðir og samstaða alls vinnandi fólks,verkalýðs og allrar alþýðu ásamt öðrum bandamönnum í þessu máli, er eina leiðin til sigurs.

Aðgerðir baráttufólksins í Grindavík,úr öllum stjórnmálaflokkum,og aðgerðir annarra suðurnesinga eru samherjum þeirra fordæmi. Þær eiga skilið stuðning sem flestra.

MYNDUM BARÁTTUNEFNDIR TIL AÐ SKIPULEGGJA AÐGERÐIR!

TIL BARÁTTU GEGN INNLENDRI OG ERLENDRI RÁNYRKJU!

ÍSLAND ÚR NATO - HERINN BURT!

BURT MEÐ BRESK "VERNDAR"SKIP - ENGA SAMNINGA!

Einingarsamtök kommúnista(m-l).

# II. Landsþing EIK(m-l)

EININGARSAMTÖK KOMMÚNISTA(M-L) VORU EINS ÁRS 12.JANÚAR S.L. MÖRG VERKEFNI VORU LEYST Á 1.STARFSÁRI SAMTAKANNA OG ENN FLEIRI BÍÐA ÚRLAUSNAR. 2.LANDSÞING EIK(M-L) VERÐUR HALDIÐ Í LOK JANÚAR. ÞAÐ MARKAR MJÖG MIKILVÆG TÍMAMÓT.

EIK(m-l) voru stofnuð eftir uppgjör við trotskista Fylkingarinnar og vinstri hentistefnu KSML í ársbyrjun 1975. Ástæðan var einföld. Engin marx-lenínisk samtök voru til á þessum tíma. Stofnþingið setti stofnun kommúnistaflokks sem fyrsta stjórnlistarmarkmið EIK (m-l) og samþikkti endanlega stofnskrána "Baráttuleið alþýðunnar". Öll verkefni og starf EIK(m-l) hefur miðast við flokkstofnunina svo sem nám í marx-lenínismanum, áróðursdreifing og þátttaka í stéttarbaráttunni. Starfið leiddi í ljós alvarlegar villur og galla í starfi og grundvelli samtakanna. Alvarlegustu villurnar eru merki borgaralegrar stefnu - hrein endurskoðun á marx-lenínismanum. Enda ljóst að barátta andstæðra stefna - marx-lenínismans og borgaralegra hentistefna er sífelld og óhjákvæmileg. Herferðin gegn villunum hófst í júní sl. Umræður og leiðréttingar eru sem mest fullbúnar. Endanlegar niðurstöður birtast eftir 2. landsþingið. En allavega snúa mál þannig að eining er um að EIK(m-l) hefur haldið grundvallaratriðum marx-lenínismans um stéttir ,ríki og byltingu, um samfylkingaraðferðir, flokkinn, sjálfsákvörðunarréttinn og baráttuna gegn endurskoðunarstefnu Sovétsinna. Mikilvæg atriði baráttuaðferða og t.d. stéttgreiningin hafa verið röng eða óljós. Gagnrýni og sjálfsgagnrýni leiða svo til að marx-lenínisminn útheimtir sem víðtækasta leiðréttingu villanna sem fyrst - en auðvitað heldur barátta hinna tveggja stefna áfram. Endurskoðun stefnuplaggs EIK(m-l) verður því annað höfuðverkefni 2. landsþingsins. Hitt er greinargóð afstaða EIK(m-l) til "tilboða" KSML um stofnun kommúnistaflokks á páskum ´76, ásamt plaggi um flokksbyggingaráætlun EIK(m-l). Að auki mun landsþingið samþykkja ýmsar ályktanir s.s. um stéttarbaráttuna á Íslandi og ástandið í heiminum. Sem kunnugt er vill KSML ekki játast skilyrðum EIK(m-l) fyrir ákvörðun stofnþings. flokksins. Þau eru: Grundvallareining hvað varðar fræðikenningu, skipulagningu og nothæfa baráttulínu í dægurmálum.KSML ver einhliða ákvörðun sína um tímasetningu stofnunarinnar. KSML vill heldur ekki gera upp í samhengi við fyrri gagnbyltingarstefnu sína með nýju stefnuplaggi fyrir stofnþings flokksins. Gegn sundrungarstarfsemi og hentistefnu KSML mun 2. landsþing EIK(m-l) setja punkta til baráttu fyrir sameiningu marx-lenínista í Kommúnistaflokk Íslands.

Fylgist vel með niðurstöðum þingsins. Bæði Verkalýðsblaðið og Rauðliðinn munu flytja efni frá þinginu.

## Lágkúruleg örlög Alþýðubandalagsins og KSML

Eins og lesendur muna var stofnuð í des. s.l. Fulltrúanefnd um landhelgismálið. Eftir nýjár hefur þessi nefnd átt við ótrúlegar meinsemdir að etja og komst ekki saman fyrr en um miðjan janúar.

Nefndin hafði sett sér það markmið að gangast fyrir aðgerðum 23-25 jan., en þá helgi voru samnorrænar baráttuaðgerðir fyrir 200 mílna auðlindalögsögu.

Eftir að nefndin hafði margtrassað að hefja auglýsingu á aðgerðum þessum og ekki svo mikið sem komið frá sér fréttatilkynningu ákvað hún þann 19.jan. að efna til fundar í Háskólabíói þann 24 jan. En áður en auglýsingar hæfust um fundinn kom nefndin aftur saman(þann 21.jan.) og ákvað þá,undir forystu fulltrúa Alþýðubandalagsins og KSML að sleppa fundinum´´og ógilti þar með allar fyrri samþykktir.

Ástæðurnar voru alls ekkert smásmíði:

AB: Að samtökin á hinum norðurlöndunum séu svo smá að þeim tekst ekki að auglýsa baráttu sína og því ekki ástæða til að taka þátt í neinum leik með þeim,- enda hefðum við ekki vakið næga athygli á okkur og degi þessum.

Hér er því til að svara, að norska hreyfingin Aksjon Kyst-Norge á sér enga hliðstæðu á Íslandi og hefur aldrei átt. Aksjon Kyst-Norge er skipuð alþýðufólki úr öllum Noregi og vandséð er að jafn viðamikil hreyfing hafi komið upp á Norðurlöndunum a.m.k. ekki síðan norska hreyfingin gegn EBE var og hét. Einnig er Útróðrarfélagið í Færeyjum,sem heldur fund bæði í Klakksvík og Þórshöfn,engin "klíka" á þarlendan mælikvarða.

Varðandi síðara atriðið, að nefndin sé óþekkt og þar með aðgerðin,þá hefur fulltrúi AB í nefndinni hamlað gegn allri skipulagningu og skipulögðum auglýsingum,sagt sem svo að fund megi boða með tveggja sólahringa fyrirvara og gjarnan það með að fundur nefndarinnar verði ekki sóttur nema hann sé auglýstur snögglega eftir alvarlega atburði á miðunum t.d. mannslát.Nú var ekki mannsláti til að dreifa og fulltrúi AB vildi engan fund og m.a.vegna þess að 3.sólahringar væru of stuttur auglýsingatími.

KSML: Engir atburðir hafa gert sem réttlæta það að farið sé af stað með fund. KSML telja það ekki fundarefni þó forsætisráðherra fari til London til að semja um líklega 70-80 þús.tonna afla innan 200 og 50 mílnanna og þá er heldur ekki afskifti NATO af málinu nægjanlegt fundarefni.

Loddaraleikur AB-fulltrúans gefur ekki annað til kynna en að AB vilji í lengstu lög koma í veg fyrir fjöldabaráttu í málinu og telji sperring Lúðvíks á Alþingi og í utanríkismálanefnd hina réttu baráttuleið.

Afstaða KSML sýnir áhugaleysi þeirra á landhelgismálinu og hafa þeir reyndar verið með í fulltrúanefndinni af litlum heilindum. Færi betur að þeir ynnu heiðarlega í þessu brýna máli,en gæfu "egoisma" sinn,hentistefnu og tilheyrandi nafnaskiptingahugmyndir upp á bátinn.

## Námsstarf EIK(m-l)

Nám í fræðikenningu marx-lenínismans er hverjum framsæknum manni nauðsynlegt. EIK(m-l) starfrækja námshringi í fræðikenningu marx-lenínismans.

Námið er skipulagt í litlum hópum og skiftist niður á tvo hluta með 6.fundum í hverjum hluta.

Hafið samband við EIK(m-l) á skrifstofu samtakanna, SKÓLASTRÆTI 3b.Reykjavík eða hringið í síma 35904 og látið skrá ykkur.

## EIK(M-L) skrifstofan opin:

Skólastræti 3b
Reykjavík

Mánud.: kl. 16-17
Föstud.: kl. 17-19
Laugard.: kl. 14-16

Lítið inn - kynnið ykkur starf og stefnu EININGARSAMTAKA KOMMÚNISTA (marx-lenínista)
Kaupið efni OKTÓBER